# Opid Bref,

áhrærandi

## ad til kynna skuli gefa, þá fyrst verdur vart vid náttúrlega Bólu og adra næma Sjúkdóma.

# Vjer Frederik hinn Sjøtti, af Guds

**Nád Konwngur til Danmerkur og Norvegs, Vinda og Gauta, Hertogi i Slesvik, Holsetulandi, Stormæri, Pettmerski og Aldinborg.** Gjørum vitanlegt:

Jafnvel þó Vaccinationen edur Kýrbólu-setning hafi nú um ecki allfá undanfarin Ar, álitin verid sem áreidanlegt Medal, til ad koma í Veg fyrir þá náttúrlegu Bólu, og þessvegna verid krøptuglega framfylgt í Vorum Rikjum og Løndum; svo høfum Vér þó, med Angri, mátt þess varir verda, ad sumir ecki einúngis hafa forsómad ad nota þetta heilsusamlega Medal, til Frelsis fyrir sjálfa þá og þeirra Børn, heldur jafnvel sett þad til sídu, er þeir vóru Almennings Nytsemi skyldir um, med því ad dylja þau fyrstu Utbrot náttúrlegrar Bólu á Heimilisfolki þeirra, og þannig ad stofna ødrum í Hættu. Vér høfum þessvegna álitid Oss knúda til, ad áqvarda Þvíngunar-medøl fyrir þá, er gleyma því, sem þeir í því Tilliti eru sjálfum sér og ødrum skyldir um, og náqvæmlegar hérum ad áqvarda Bodord Tilskipunarinnar af 17da Apr. 1782, fyrir **Danmørk**, hvør einnig skipad er, þann 5ta Sept. 1794, ad gylda skuli í **Norvegi**, til þess ad hennar mikilvæga Tilgángi verdi þess óhultar nád, og Utbreidsla næmra Sjúkdóma í bádum Rikjunum fyribygd. Þessvegna áqvørdum og skipum Vér allramildilegast:

1.) Ad sérhvørr Húsfadir og Húsmódir, svo fljótt sem vart verdur vid Merki til Barnabolu í þeirra Húsum, skulu, án Tafar, géfa þad til kynna Sóknarprestinum, edur þeim tilsetta Distrikts Chirurgus á Landsbygdinni; í Kaupstødunum einum af þeim praktiserandi Læknum, og í **Kaupmannahøfn** þeim næsta Distrikts Lækni, ef þau sjálf engann Húslæknir hafa, undir Sektir af 8ta Daga Fángelsi vid Vatn og Braud, inntil 3gja Mánada ervidis í Forbetrunar-húsi, eptir Yfirsjonarinnar Asigkomulagi, og Dómstolanna Alitum.

2.) Ad allir Læknar og Prestar, sem af Húsbændum og Húsmædrum hafa fengid Avísun um Bolu-sjúkdómsins Byrjun, skulu tafarlaust géfa þad Yfirvaldinu samastadar til kynna, og med Tilstyrk þess gjøra Vidleitni til Lækninga fyri þá Sjúku, og til ad koma í Veg fyrir þeirrar næmu Sóttar Utbreidslu, og á þad, sem þannig skédur, ad géfast til kynna þeirri allranádugast settu Commission í **Kaupmannahøfn**, áhrærandi Kýrbólu-setninguna.

3.) Ad einn og sérhvørr í þeim Húsum, hvar vart verdur vid þá náttúrlegu Bólu, skulu vera skyldir til ad láta tafarlaust setja sér Kýrbolu, ef enginn veit til Vissu ad þeir ádur haft hafi annadhvørt þá náttúrlegu edur settu Bolu, ellegar Kýrbóluna.

4.) Ad þær Varúdar-reglur, sem áqvardadar eru í Tilskipuninni af 17da Apr. 1782, í Tilliti til annara Landfarsótta, skuli einnig ná til Bóluveikinnar*), eins og hitt skal vera í fullu Gyldi, sem

*) Ad því leiti Almúga vidkémur, — því Embættismønnum er ætlad ad vita Innihald og Bodord þessarar markverdu Tilskipunar — setst hér stutt Agrip hennar annara Bodorda þanninn:

1. Art.

sem þann 13da Febr. þ. A., er kunnugt gjørt **Kaupmannahafnar** Innbyggendum fyrir Tilhlutun Vors danska Cancellies, áhrærandi hvørnig med skuli fara, þegar fyrst verdur vart vid þenna Sjúkdóm samastadar. Og sídast:

5.) Ad þeir, sem forsóma ad géfa til kyña Utbrot þeirra næmu Sjúkdóma, sem um er talad í Tilskipuninni af 17da April 1782, skuli sæta sama Straffi og því, sem hér ad framan er áqvardad þeim, er ecki géfa til kynna, þá vart verdur vid Utbrot þeirrar náttúrlegu Bólusottar. Eptir hvorju allir Vidkomendur allraundirgéfnast ega ad hegda sér.

Utgéfid í Vorum konúnglega Adsetursstad **Kaupmannahøfn**, þann 27da Maji 1808.

FREDERIK R.

KAAS.

Cold. Knudsen. Bülow. Monrad.

1. Art. Sérhvørr Bóndi, í hvørs Húsi uppkoma skjædar og næmar Sóttir, svo sem: Blódsótt, Fleckusótt, eda ønnur hættuleg Sótt, sem dreifir sér út í Húsinu og reynist næm, skal, eda sé Bóndinn ecki vid, þá Fólk hans eda nærstu Grannar, strax géfa þetta Sóknarprestinum til kynna.

5. Art. Þeir, sem í Húsinn eru hjá þeim sjúku og þurfa þeim til Adhjúkrunar, ega med Alúd ad gæta þess, ad Læknismedøl séu náqvæmlega brúkud, og Fyriskrift Lækna þarum fylgt, og má enginn Ovidkomandi koma til Sjúklinganna; Sorgar- og adrar Almúga-Samkomur þar, ega fyrirbodnar ad vera á medan Sóttin vidheldst.

6. Art. Þeir, sem deya af þesshàttar skjædum Sóttum, skulu jardast ádur full 4 Dægur eru lidin frá því þeir deydu, í sama Fatnadi, sem þeir endudust í; ega Likkistur þeirra ad bikast innanverdt, en þeir grafast 4ra Alna djúpt undir Jørdu. Engin Likfylgd má leyfast vid þesshàttar Greftranir, og einúngis þeir koma saman, sem naudsynlega vidþurfa til ad bera og jarda Likid.

7. Art. Géti þessar Varúdar-reglur, náqvæmlega haldnar, samt ecki hindrad Utdreifíngu skjædra Sótta, má, þegar Landlæknirinn álitur þad øldúngis naudsynlegt, gjøra þá Rádstøfun, sem best og hagqvæmast skéd gétur, ad Sóttar-bæirnir verdi med Fólki umsetnir, til ad verja øllum Adkomu þángad og Burtfør þadan, hvar um Amtmadurinn þá gjørir alla naudsynlega Rádstøfun.

Ad Bodi ens konúnglega danska Cancellies, þann 3ja Júní 1808, á þetta konúnglega **Opid Bréf** ad uppfestast á allar Kirkju-dyr, øll Þinghús, vid Þing og Almúga Samkomur, og á sérhvørja Krambúd á Landinu.

**Islands Stipt-Amts Contoiri**, þann 10da Oktobr. 1809.

M. Stephensen.

